Sigurður Breiðfjörð:

Gustafs r. og Valvesar.

Ak. 1860.

# RÍMUR

af

# Gústaf Adolf og Valvesi.

Orktar af

S. Breiðfjörð

1837.



Útgefandi:

J. Borgfirðingur á Akureyri.

1860.

## Fyrsta ríma.

Ferskeitt.

---

1. Hef jeg til þín hug og mál,
Hjartans eld sem glæðir.
Þú sem lyptir ljúfri sál
Lífs yfir önnur gæði.
2. Hvor þig undrast maður má,
Máttar ríki kraptur;
Hingað kemur hæðum frá,
Í himin stigur aptur.
3. Hjá þjer öll er önnur dyggð,
Eins og lítilræði,
Voldugasta **vina tryggð,**
Vertu nú mitt kvæði.
4. Lát þú mig í líking sjá
Líf og krapt þinn fróma,
Sláðu mína strengi á
Stjörnu eikin ljóma.
5. Verðugt svo jeg vandi smíð
Virðstu hjá að standa,
Inn í hjartans fylgsnin fríð,
Flyt þú skáldsins anda.
6. Vinskapur þín verk og dýrð,
Vilda jeg nú að gæti,

Í mínu orðið máli skýrð,
þá mœrðar kem í sæti.
7. Styrk þú anda og orðin mín,
Eigið brjóst að vinna,
Líka hrífa heim til þín,
Hjörtun brœðra minna.
8. Mig til hvatti dyggðug drós,
Dœmin sína þegnum,
Hversu bjart þitt lýsir ljós,
Lífsins taugar gegnum.
9. þú ert geisli af þeirri sól,
þankans nótt sem hrekur,
þú ert allra þeirra skjól,
Sem þjer í faðma tekur.
10. Miklu hærri enn meyja ást,
Má þinn styrkleik reyna,
Af því hjá þjer aldrei sást,
Utan sú hin hreina.
11. Hina vildi jeg fæla frá,
Fíflsku sinni œrri,
þjer sem búa þykjaet hjá,
En þar eru nokkuð fjærri.
12. En þú dyggðin eðla há,
Œðst í hrósun rita,
Hversu fá þú hjörtu á,
Hörmung er að vita.
13. Dœmin framm jeg draga vil,
Dyggð sem ala fríða,
Standi við stundar bil,
Stúlkurnar að hlíða.

14. Um sjötjanda aldarfar,
Eptir sögum nýjum,
Gústaf Adolf gildur var,
Gylfi yfir Svíum.

15. Kempan borin kongi var,
Karli þeim níunda,
Krónu hans og heiður bar,
Heillir fús að stunda.

16. Stjórnin hans af hinum bar
Helzt á marga vega,
Af mörgum nefndur manni var,
Mikli rjettilega.

17. Sálar gáfur hafði hann,
Hlotið mest af þjóðum,
Iðka þær og efla vann,
Allskyns lærdóm fróðum.

18. Latínuunar mælsku ment,
Sem móðurtungu galar,
Völsku, Frönsku, þýzku þrennt,
þengill málið talar.

19. Hetja mest við hlífa grönd,
Hvatur til stórráða,
Geyma mundi í mynni lönd,
Mildings hrósið skráða.

20. Íþrótt fremur öllum bar,
Eins á tungu hagur,
Kempulega vaxinn var,
Vænn og andlits fagur.

21. Málaði hugar híbýlin,
Hvassi augna litur,
Orða sinna aðgætinn,
Alúðligur og vitur.

22. Bráðlyndur að vísu var,
En vel því kunni að stýra,
Mannkærleik og mildi bar,
Með sjer skapið hýra.

23. Viðkvæm sál og vinaleg,
Varaðist stolta móðinn.
Af því títt að ástum hnjeg,
Eins við menn og fljóðin.

24. Víst mun aldrei verða lægð,
Vjer þó týnum brögum,
Vísirs mikla vald og frægð,
Veraldar í sögum.

25. Getum þess um skógaskeið,
Með skötnum kongur ríður,
Drengir þreyttu dýraveið,
Dagur að kveldi líður.

26. Fylgðar bragna frá sjer reið,
Fróna stýrir blíður,
Jórinn eins og laufið leið,
Sem lyptir vindur stríður,
27. Finnur kongur fyrir sjer,
Forna hýsing bœa,
Þyrstur nærsta þorna fer,
Þreyttum jór að æja.
28. Hestinn batt við eina eik,
Og að bœnum fríða,
Fiman hafði fótaleik,
Frœksti reynir skíða.
29. Maður beið í bjarkakrans,
Buðlung lítur þetta,
Eikur yfir höfði hans,
Handaböndin fljetta.
30. Ásýnd þessa unga manns
Öðling metur netta,
Birtu njótur brimlalands
Bók var einni að fletta.
31. Einhugaður beitti brá,
Að bókarletri mætur,
Strax og konginn sjálfan sá,
Sveinninn spratt á fœtur.

32. Kurteisliga heilsar hann,
Hæzsta geymir sala,
Berjamunngát bera vann,
Buðlung þyrstum svala.
33. Niblung frjetti nafni að,
Nöðru týnir skeita,
Veitti hinn það vísir bað,
Valves sagðist heita.
34. Öðling þanninn orðin jók,
Ei svo týni fundum,
Heyra vil jeg hvaða bók,
Hafið þjer í mundum?
35. Aptur Valves ansar því
Álfi fjarðar bruna:
Ritgjörð sú er nærsta ný,
Nú um vináttuna.
36. Hvern fær bókin hjá þjer prís,
Hilmir spurði snari?
Hún er köld og hörð sem ís,
Hinn svo miðlar svari.
37. Vingan þín mun kongur kvað,
Kannske betur verma,
Allvel tók hinn undir það,
Og nam fremur herma.

38. Þessu eins og svelli og sól,
Saman líkja megið,
Önnur brennur önnur kól,
Um það rjett jeg segi.
39. Vinum muntu þínum þá,
Þarfur sagði gramur:
Ansar hinn ef ætti þá,
Ástum mundi jeg tamur.
40. En jeg leitast ei um þá,
Opt að velja mikið,
Af því flestir er jeg sá,
Frá ástum hafa vikið.
41. Vildi jeg mínum vini allt,
Virðing, heill og frama,
En mjer kann að verða valt,
Að mig gjöri hann sama.
42. Svoddan vinur sjóli tjer:
Sje jeg kongum henta,
Auðnu þá ei óska mjer,
Ansar geymir mennta.
43. Hver sem hafa að vinum vill,
Volduga og ríka,
Smjaður tunga ólm og ill,
Optast villir slíka.

44. Hjartað fróma hræsnin flá,
Í hœttu marga leiðir,
Vinur er sá vömmum frá,
Með vizku og einurð og sneiðir.
45. Þá skal vista þig hjá mjer,
Þengill fór að spjalla:
Starfa vel jeg þennan þjer.
Og þig til vinar kalla.
46. Kong þinn sjerðu sjálfan nú,
Sveinninn kraup þá flatur,
Öðling mælti uppstatt þú,
Ásta geymir hvatur.
47. Vininn faðmar þengill þann
Þaðan frá, svo kemur
Öðling virðir ungan mann,
Öllum hinum fremur.
48. Ríkis engin vildi völd
Valves þyggja svinni;
Hirti fátt um gull og gjöld,
Gætti að skyldu sinni.
49. Kunni hann með sóma sið,
Sjálfum kongi þjóna,
Aldrei skildi Valves við,
Vænstan stýrir fróna.

50. Öðlings varð hann augasteinn
Opt því ráðin laggði,
Allan líka huga hreinn,
Honum ráðin sagði.
51. Eptir siðum utanlands,
Eitt sinn þessar mundir,
Garpar höfðu grímu dans,
Gleði vakna fundir.
52. Svo er laginn leikur sá,
Ljósa undir skímum,
Enginn þekkja annan má,
Andlit byrgjast grímum.
53. Keppast við að koma þar,
Kímiligir skarar,
Konur, meyjar, kellingar,
Kongar og flórmokarar.
54. Þar um virðing ei er annt,
Allir jafnir sýnast.
Eins má kveðja kong og fant.
Komplimentin týnast.
55. Þó að sýnist fagurt fljóð,
Sem fer með grímu klára,
Máske það sje móðir góð.
Myggluð fjölda ára.

56. Nóttin verður varla löng,
Viðum flœðar glansa
Hljóðfœranna heyrir söng,
Hópurinn stígur dansa.

57. Það bar til í þetta sinn,
Þar að leiknum prúða,
Kemur sjálfur konguriun,
Klæddur dular skrúða.

58. Þar með honum Valves var,
Vafinn grímri síðri,
Öðling líka inni þar,
Ásýnd leyndi fríðri.

59. Öldruð kona ein að sjá,
Að sjer dansi ríður,
Andlitinu felldi frá,
Fölfa grímu niður.

60. Svo sem stormur sólu frá,
Svörtu skýin hrekur,
Heiðgeislum svo hauður á
Hella niður tekur

61. Mönuum svo að bragði brá
Brúði að skoða fína,
Enginn nokkurt andlit sá,
Yndisligar skína.

62. Ung var hún og engilbjört,
Undrast flestir slíka,
Náttúran að gæti gjört,
Gersemi þvílíka.

63. Þokka drósin beztan bauð,
Sem brögnum er í mynnum;
Hróðug rósin hrein og rauð,
Hreiður bar á kinnum.

64, Kveyktur þannin eldur er,
Innan roðma dreginn,
Hvíta birtu svo frá sjer,
Sendir öllu meginn.

65. Öðlings líka augað drógst,
Að eyju fjarðar vita,
Landshöfðingjans ljúfa brjóst,
Logaði þá af hita.

66. Seggir týndu söng og dans,
Svo varð kyrrt í ranni,
Alla rak í roga stans,
Roðnaði líka svanni.

67. Grímu sinni gat hún náð,
Göngu þaðan knúði.
Ó, hvað fjekk jeg ekki að sjá
Alskínandi brúði!

## Önnur ríma.

Skothenda.

---

1. Biðla greyin búa þrátt,
Bága kosti viður,
Hrigginn beygja og lúta látt,
Líkar skapi miður.
2. Þó að vísu miklu má
Muna, enn fátt um tala,
Hvaða fýsi hvetur þá,
Hjúskapinn að fala.
3. Sumir prýði andlits á
Ástir sínar næra,
Girndin stríðir þung á þá,
Þanka fælir væra.
4. Margir líka elska auð,
Og unna stúlku segja;
Af gjaldi rík, enn gæða snauð,
Góð þeim virðist meyja.
5. Margir þrá með sama sið,
— Þó sje ei kostur fríður —
Ættir háar hengjast við,
Hvað sem auðnu líður.
6. Um þá tala ekki má,
Íllt sem fljóðum baka.
Vilja svala sjer, og þá
Sveia hreldum maka.

7. Þessa alla er þannig fá,
Þægðar hug til kvenna,
Blinda kalla biðla má,
Því blindt í sjóinn renna.
8. Þó ættir skíli auðarsnót
Eða húðin fríða,
Einhver gríla örg og ljót,
Undir kann að skríða.
9. Hinn er sálar eining á
Ást og stöðuglyndi,
Yndis málin elur há,
Ekki slœr í vindinn.
10. Hver sem velur vizku og dyggð,
Þó vanti nœgð af seimi,
Honum tel jeg beztu byggð,
Búna í þessum heimi.
11. Auðnan háa af því rís,
Ætíð mun hún vara.
Ef að sá sem kongur kýs,
Kann með slíkt að fara
12. Eðli viður sjerhvert sitt
Svanna að ástum hnígi;
Öllu miður hlíðir hitt,
Að Hrafninn Svaninn vígi.
13. Fyrir teita frónsins drótt,
Flyt jeg bœnir glaður,
Öllum veitist vel og rótt,
Vinur, kona og maður.

---

14. Gústaf sjóli frægðar frjáls,
Frá sjer numinn starir,
Andlit sólar öldu báls,
Innst í hjarta varir.

15. Valves kalla kongur fer.
Kveður svo hinn frægi.
Fyrir alla muni mjer,
Meyjar segðu hagi.

16. Valves greiður við ei stóð,
Vinar bón að þylja,
Aðalheiður heitir góð,
Hafnar stjörnu lilja.

17. Þeir sem sprundið þekkja hjer,
Þilja allir munnar:
Sjerhver undrast eins og vjer,
Afbragð náttúrunnar.

18. Af tignar blóði borin er,
Bezta framm í landi;
Ein hjá móðir unir sjer,
Í æðsta heilla standi.

19. Glaumi öllum varnar veg,
Vörin orma bala,
Aldrei spjölluð, ástúðleg,
Eins og liljan dala.

20. Öðling stynur og svo kvað,
Eyrindi mín að flytja,
Farðu vinur, strax af stað,
Stúlku þeirrar vitja.
21. Biðla meyjar mætrar til,
Minna áttu vegna,
það jeg eigi efa vil
Að hún vel mun gegna.
22. Mjúktalaður meður þor,
Muntu ei staður svara,
Dyggða maður vænsti vor,
Verður snarast fara.
23. Auðar sól jeg ekta fer,
Og læt vígslu flytja,
Á valdastóli hæðstum hjer,
Hún skal með oss sitja.
24. þessa kæri farðu ferð
Fjótast sem jeg beiði,
þína æru, ást og verð
Upp á jeg mig reiði.
25. Með áhyggju mesta að sjá,
Er málar hjartað vina,
Kempan dyggva kveður þá,
Kong og bragna hina.

26. Hinn forsjáli hvatast ljet,
Hitta garðinn brúða.
A ð a l m ú l a móðir hjet,
Morgun sólar skrúða.

27. Eyrindin segir henni hann,
Hún því dável tekur,
Að slíkan eigi mærin mann,
Móðir óskir vekur.

28. Upphefð þráði æðsta að fá,
Æru girndin káta.
A ð a l h e i ð u r hlýddi á,
Hikaði þó að játa.

29. Afbatanir ýmsar senn,
Að efni því nam hnegja,
(Slíkt er vani, viti menn,
Vorra fríðu meyja).

30. Hinn við elur hildi líns
Heitar bœnir lengi;
Hann framm telur herra síns
Heiður, vald og gengi.

31. Fylkirs málar frægð og dyggð,
Fegurð, siði neita;
Síðan ala brennu byggð,
Biður svör að veita.

32. Þungan anda drósin dró,
Dæsti lengi þannin,
Óðkvikandi augað fló,
Upp á sendimanninn.
33. Valves hjarta holið móð,
Hálft af slíku særði,
Því sigur bjarta sjónar glóð,
Segulfjöllin hrœrði.
34. Mætur svannin mæla vann,
Mun ei kempan glaða:
Fyrir annan en sem hann
Eyrindum vilja hraða?
35. Aptur greinir hetjan hresst,
Heims af öllum sonum:
Þess jeg einum óska bezt,
Álúðligast honum.
36. Andsvör grundar bauga bil,
Og blóð á kinnar setur:
Einn þó mundi annar til
Sem eyrindið gengi betur.
37. Hvorki sálin hnegist til
Hofpragtar nje valda,
Högum brjála valla vil,
Værð og spektum halda.

38. Standið lægra lyndir bezt
Við líka minn að búa,
Unun þægri er þar við fest,
þessu megið trúa.
39. Kongasölum frá jeg flý,
Fremd og völd þó gefi;
Lífsins dölum lægri í
Lysting mína hefi.
40. þjer jeg heyri heiðrið spekt,
Hofmóð öllum týnið,
Dyggðum eirið yndisvert,
Öllum viðmót sýnið.
41. Aðalheiður óskar mest,
Ei má þar um saka.
Að yður leiði auðnan bezt,
Í arma blíðum maka.
42. Valves hátt svo hrópa fer,
Hugar þjáður stríði:
Í hverjar áttir horfið þjer,
Háskaliga prýði?
43. Brátt má ungur örmagnast,
Augum fyrir þínum,
Sútin þunga þrístir fast,
því að huga mínum.

44. þjer, ó æra, þrek og dyggð,
þakklátsemi og skylda,
Endurnærið andar byggð,
Ástarfeyknum trylda.

45. Valves ekki vanmegnast,
Vill þó heillum týna,
Demants hlekkjum fjötrið fast,
Fýsn og þanka mína.

46. Móti því skal þenking kvik
þreyta vörn ólina,
Nú að drýgja drottins svik,
Og dyggðir myrða vinar.

47. Með þeim hætti ef ljeti lund,
Láni og skyldum týna,
Engin bætti yndis stund,
Optar hagi mína.

48. Ekkert mæti, ekkert stand,
Engin nægð af gæðum,
Engin kæti, ekkert land,
Engin sæld á hæðum.

49. Feigð nákaldri flýtandi,
fyrir verkið slæma,
Svo um aldir sýtandi,
Sjálfan mig fordæma.

50. Aðalheiður hrópar þá:
Helzt oss forlög þreyta,
Þar skal neyða þankan frá,
Þínum ástum skeyta.

51. Dyggð sem æfi jeg einatt hjer,
Eigið þvingar hjarta,
Gleði kæfir minnar mjer
Morgun ljósið bjarta.

52. Svo skal vera vinur minn,
Vöktum eðallyndi,
Þankan hjer að þvinga um sinn,
Það skal nú mitt yndi.

53. Hjartað bresti mitt í mjer,
Meina fullt um síðir,
Svo trúfesti tama þjer,
Tigni allir lýðir.

54. Ó, þú kæri Adolf minn!
Upp þá Valves stynur:
Þjer jeg færi þetta sinn,
Þyngsta offur vinur.

55. Ef þú sæir, heyrðir hjer,
Hæðsti ráður þegna,
Sárt hvað fæ jeg synja mjer,
Sjálfs þíns bæna vegna.

56. Mærin fús og menntadæl,
Mjer sem gleymist aldrei,
Lifðu þúsund sinnum sæl,
Í sælu ótalfaldri.
57. Faðmar svanni fríðan mann,
Fýsti brjósti ljetta,
Ekki hann þó aptur vann,
Endurgjalda þettað.
58. Mjúkri þrýsti meyjar hönd,
Mjög var kveyktur hugur,
Síðan snýst og braut þau bönd
Burtu sár nauðugur.
59. Svo vinátta á bjargi byggð,
Böndin digru slítur,
Sú almáttug eðla dyggð,
Ætíð sigra hlítur.

---

## Þriðja ríma.

Baksneitt stuðlafall.

---

1. Hetja mesta haldin er í helgri fræði,
Sá er stjórnar sínu geði,
Og sigri tíðast valda rjeði.

2. Til þess skulum vinir verjur vænstar brúka,
Krapta þó við kennum lina,
Kærleikan og skynsemina.
3. Vopnum þeim ef vaskir ekki viljum beita,
Óvinir þá að oss leita,
Illa mun um síðir veita.
4. Óttalegust ófreskjan af óvinunum,
Hvöt að öllum hugar pínum,
Heiptin er með börnum sínum.
5. Þegar nokkuð fœri fjekk að flíka grandi,
Óvörum og óstillandi,
Að oss veður þessi fjandi.
6. Drambseminni alin er sú illa gyðja,
Dœtur bæði og dýra niðja,
Dækjan hefir sig að styðja.
7. Fyrst er barnið Foröktun sem fátœklingum.
Aðsókn veitir ærið stranga,
Sem ótti tekur þá til fanga.
8. Lygð og hótun heita dœtur heiptar líka,
Formæling er fús að vaka,
Finna jafnan má til saka.
9. Ranglátur er rjettarhár og rausnarsamur,
Undan sjer með afli lemur,
Alla dyggð sem nærri kemur.

10. Morðhugi sem maðurinn að miklu
virðir.
Ranglátur með reiði sverði,
ræna margan lífi gerði.
11. Hreifir líka hrekkja vinnu Hroki
galinn,
Mellunnar í muna alin,
Mörg eru fleiri börn ótalin.
12. Hvar sem ræðst að Hugarborg-
um hyskið slæma,
Undan hlýtur ei að rýma,
Utan beiti vörn í tíma.
13. Aptur þó að aðsókn láti Illskan
bíða,
Lengi vilja sárin svíða,
Sífellt hljótum því að stríða.
14. Hetjuliga höldumst við, svo Heipt-
arskari,
Höggvi oss ekki hjarta sári,
Heljar leiðir það að fári.

---

15. Alleram hjet Aðalheiðar einka
bróðir,
Hermanna var höfuðs maður,
Harla kœnn við sverða slaður.
16. Við svo bar þá Valves sat hjá
veiga nönnu,

Hlýrinn kom að hennar ranni,
Hún þá breiddi faðm að manni.
17. Alleram þá yfirsvífur ófrín reiði,
Úr bali dregur brandinn skæða,
Blettinn ættar huggði að græða.
18. Hinn sjer undan hvergi brá, en
horfði spakur,
Eins og væri að engu sekur. -
Allerams það furðu vekur.
19. Langbarðar því ljósið fór að loga
miður,
Ofan í náði slokkna slíður,
Sem stjörnu hrun af himni líðnr.
20. Samt þó heimti eintal á að afli
ramur,
Hinn er sekan huggði fremur,
Hetjan sú að bragði kemur.
21. Hvað við sína systur hefði saman
lynda,
Reikning biður strangan standa,
Storðarnjótur ljóma banda.
22. Valves þessu vitur ekki vildi leyna,
Álfi sagði áar funa,
Ástir kongs og frásöguna.

23. Síðan þaðan sagnaþrotinn seggur
víkur,
Alleram var eptir smeikur,
Um hans sögu trúarveikur.

24. Frjetti ei til ferða hins og furðar
þetta,
Sjálfur vill því Hilmir hitta,
Og heimuglega ráðin stitta.

25. Ásýnd með, sem áhyggja og ergi
málar;
Kemur hann til konungssala,
Kýs við ræsir fá að tala.

26. Krýpur fyrir kongi hann og kunni
mæla:
Spurning vil jeg eina ala,
Ef mjer leyfið nú að tala.

27. Vil jeg feginn vita fá, hvert Valv-
es hafi
Aðalheiði að yðar leyfi
Eyrindi við sem kærleik hreifi?

28. Mín er einka systir sú hin svinna
kæra,
Hennar vil jeg heiður vara,
Hilmir tekur þá að svara.

29. Ef að fögru Aðalheiðar ertu
bróðir,
Ótryggð muntu ei að oss slœða,
Um skalt þú hið sanna frœða.

30. Vegna mín hann Valves hitti
væna píku,
Hýra biðja hildi dúka,
Hugan minn að grœða sjúka.

31. Vígjast bað jeg víñð mjer og verða
konu,
Sytja vært að veldi mínu,
En vefja mig í skauti sínu.

32. Veit jeg nú að hefur hann með
hollu lyndi,
Brjóstið mitt svo bata fyndi,
Borið henni það eyrindi.

33. Hins jeg vœnti, hún nje þú mig
hindri eigi,
Að jeg þessa ekta megi,
Alleram á móti segir.

34, Sárast eruð sviknir þjer minn sæli
herra!
Annað mun í efni verra,
Ástir slíkar látið þverra.

35. Sjálfur hefur svikarinn það sver
jeg eiði;
Ungu faðmað Aðalheiði,
Ærulaus því tryggðir deyði.
36. þessi eigin augun mín þann óvin
skœða,
Örgum sá jeg örmum slœða,
Yfir jörðu silkiklæða.
37. Hjarta kongsins hvarma ský með
hrœring þreyngir,
Bólgið mjög og þrumu þrungið,
þrútnaði brjóstið heiptum stungið.
38. Blóðið œðir brim sem flœði björg-
in yfir,
Af því bræðin einvald hefir,
Andlit hræðiliga vefur.
39. Hyggjan vitra innra og ytra um-
ráð missti,
Sina titran holdið hrissti,
Heiptin bitra sálu gisti
40. (Eins og vindar hismi hrinda um
hálan klaka,
Fœr blíðlyndið flótta taka,
Fólsku blindir stormar skaka.

41. Yndið blíða, ástin þýða og eðlið trúa,
Þegar hríðir heiptar spúa,
Hrekjast, níðast, mega flúa.

42. Vit dauðrotar við umbrotin vestu kynja,
Lætur slota heill og hrynja,
Heipt andskotans sigur brynja.

43. Ó þú vesta eitur pestin einkis nýta,
Vinskap bezta vogar slíta,
Vekur lesti og morði flíkar).

44. Skrímslið sinni vondu vinnu varla gleymdi,
Gústaf sinni og sál afskræmdi,
Sannra innra manninn flœmdi.

45. Öllu hinn illa kyni önd hann ljeði,
Brjósti vinar var það skaði,
Viðkvæmnina banneitraði.

46. Úrskuð þennan illa heipt við öðling gefur,
Setjast skyldi sveinnin teitur,
Seinfœrt undir píslar eitur.

47. Allar kvalir ógurligar, átti að þola,
Frammi fyrir sjálfum sjóla,
Seint þó gisti heljar stóla.

48. (Hvernig máttu mildinganna mesti
heiður,
Vopnaður með vizku og dáðum,
Víkja svo að Heiptar ráðum?

49. Máttu þannig mannkærleikan myrða
virta,
Viðkvæmnina væra og bjarta,
Vakandi svo reka úr hjarta.

50. Vinskapur, sem vaktir líf í
vísum mínum!
Gatstu ekki hrundið honum
Heiptar undan fádæmunum)?

51. Vopnuðum það vísir flokki vann
að segja:
Vin sinn hitta Valves fríða,
Vefja í bönd og þangað hýða.

52. Fara þeir og finna ekki frægðar-
halinn,
Einhverstaðar er hann falinn,
Öðling verður þanka kvalinn.

53. Bráð og hörð þá buðlung önnur
boð ljet flytja,
Um landið allt til Svía sveita,
Svikarans með hasti leita.

54. Fyrðar skulu flytja hann með fullu
lífi,
Fylkirs til svo fróun hafi,
Og fanginn lúti að heljar kafi.

55. Einfalds því hann ekki vildi unna
dauða,
Valvesi af vítum fjáðan,
Vinskap hans er ljeti smáðan.

56. Óskar kongur innan bólginn eit-
urs meinum,
Lífið hans með leiðum pínum,
Lengja mest að vilja sínum.

57. Lofðung þannig lengi beið í ljót-
um huga,
Innan bræðin náði naga,
Nætur eins og bjarta daga.

58. (Líku þessu lundin grimm til leið-
ar kemur,
Sem við mat og valdi væmir,
Verða góðir hlutir slæmir).

59. Af því kongur Adolf verður í
þeim kvölum,
Öllum sínum eigin þrælum,
Örsnauðari af hugar sælum.

60. Öfunda því undirsátar auma mundi,
Alsráður í eigin landi,
Öðling þannig kvaldi fjandi.

61. Bilting mörg um brjóstið sjóla bólg-
in æddi,
Mörg þó gleðin ljós framm leiddi,
Logandi þeim bræðin eyddi.

62. Fjóra daga Fylkir þannig fólskan
brenndi,
Buðlung kom þá brjef að hendi,
Bráðum Valves rit hann kenndi.

63. Titrandi hann brjefið braut, því
brjóstið heita,
Naumast honum vildi veita
Vægð, að orðum miðans leita.

64. Þú sem faðir æðstur ert að ást og
friði,
Komdu öllum lýð að liði,
Sem logar í huga grimmdarsviði.

---

## Fjórða ríma.

Nýhenda.

---

1. Konga þegar krónur á
Klæðum dökkum nóttin slæðir,
Framm sig dregur draumur þá,
Sem dagsins skart og völdin hræðir.
2. Mun ei sjóla margan þá,
Morð og friðartöpun dreyma?
Og valda stóli völtum á,
Í voðaligum bylgjum sveyma.
3. Undir kafin ótta ský,
Öll má virðast horfin sæla,
Og sýnast vafinn voða í,
Vinalaus á milli þræla.
4. Eins þótt vakinn valda mann,
Vefji sig í tignar kjóla,
Vina spaka huggun hann,
Hefir sjaldan á að stóla.
5. Hvergi rótt er heldur skjól,
Þó 'hlotnist auður jarðar honum,
Sorg og ótti eiga ból,
Optast nær hjá fjársjóðunum.
6. Vondir andar öfundar,
Auma kringum maura vaka,
Svo sem fjandinn sálirnar,
Silfur hinna vilja taka.

7. Allteins banna völdin veik,
Varanliga kæti mynda,
Hver vill annan lemja úr leik,
Og lastafullum stóli hrynda.
8. Og þótt fái að hanga hjer,
Heila æfi í valdstjórninni,
Verða má þeir safni sjer,
Sektum meir en farsældinni.
9. Slíkur ótti angur býr,
Í augum snauðra þó að skíni,
Eins er nótt og dagur dýr,
Dauflegt þeim svo værðum týni.
10. Voldug dyggð og Vináttan,
Varnir hefir allra nauða,
Engin hryggð nje auðnu bann,
Orkar þeim að vinna dauða.
11. Kvalning þó að langsamlig,
Leggi hana banaspjóti,
Hróðug, rósöm, hetjulig,
Hörmungunum stendur móti.
12. Hvað sem hendir heims um reit,
Hennar eru vinir sælir,
Góðan enda vissan veit,
Von sú hana aldrei tælir.

---

13. Krónu baldur brjefið á
Beitti sjón, þó hyggi vera.
Innihald var þetta þá
þannig: „Fróna mikli herra.

14. Fimmtíu mílna fjarlægð í
Flúinn undan þínum ráðum,
Yðar pílna óðum því,
Ekki þarf að kvíða bráðum.
15. Yðar bræði ekki þó,
Eg því miður kann að flúa,
Sú mig hræðir hugar fró,
Hvar á jörð sem næ að búa.
16. Og því held jeg hollan mjer
Hefndir dauða bræði þinnar,
Sáran eld jeg innra ber,
Afglöp fyrir skyldu minnar.
17. Dauðinn fríja mundi mig,
Minni sjálfs og yðar klögun,
Hörmung ný hún herðir sig,
Hjarta míns að stœkka nögun.
18. Adolf kæri, æ þín náð,
Ást, vinfengi, tryggð og blíða!
Mitt vill hrœra hjarta þjáð,
Helzt þess lengi missir svíða,
19. Mun það vera mögulegt,
Að mitt sig hjarta vildi dylja,
Þannig bera bölið frekt,
Að brjóta skyldu, tryggð og vilja.

20. Nei, jeg yður unni heitt,
Eiginn lífi mínu fremur,
það tilbiður einatt eitt,
Ást sem frá þjer vinur kemur.

21. Kann þó vilji minn á mót,
Mínum vilja sjálfur brjóta,
Öll svo dylji ei æruhót,
Aðalheiðar girnist njóta.

22. Og því var jeg í það sinn
Yður hlíðinn Gústaf kæri,
Í hennar fara híbýlin,
Svo hörmung slíka þaðan bæri.

23. það var grandið mest til móðs,
Meðan flutti rjett eyrindi,
Alskínandi fegurð fljóðs
Fangað hafði mig í skyndi.

24. Meðan bauga bar jeg gná,
Brínt eyrindi kongs af vörum,
Mín hafa augu máske þá,
Mælt fyrir lyndis óskum snörum.

25. þetta eina er afbrot mitt,
Að því hót ei mátti gera,
þó skal leyna hvergi, en hitt,
Helzt til bóta kann að vera.

26. Herra! yðar eg á mjer,
Einn skal sjálfur hefndir vekja;
því án biðar flýja fer,
Og frá þeim álfum götur rekja.
27. Aðalheiði og yður sjá
Augu mín ei skulu fremur,
Hjeðan leiðir langt í frá,
Legg jeg hvar sem staðar nemur.
28. Hegning meiri engin er,
En ykkur bæði við að skilja,
Veit jeg eirir aldrei mjer,
Optar þó svo kæti vilja.
29. Veit jeg seima sólin hlý,
Sikling dælar ástir geymir,
Víðum heimsins auðnum í,
Ófarsælum Valves gleymir.
30. Hljótið sælu Adolf æ,
Og yndis dáð í gríðar vindi,
Og mærin dæl sem mest jeg fæ,
Með áfjáðu beðið lyndi.
31. Beggja sjeð þá blómgast snill,
Og bœnir mínar nornir efna,
Skíma af gleði vakna vill,
Valves þínum undirgefna.“

32. Þegar brjefið lofðung las,
Ljóta bræðin skapið þingar.
Ekki sefast innra þras,
Óðar verða geðshrœringar.

33. Hjartað gildum harmi þjáð,
Herta lætur flesta strengi,
Heipt við mildi, hefnd við náð,
Hryggð við kæti barðist lengi.

34. Mjög hins seka meðkenning,
Er meintar syndir vildi harma,
Mildi vekur mannkærling,
Mýkti lyndi og bleytti hvarma.

35. Aðalheiðar ástarhót
Ungan við, þar brjefið sýndi,
Aptur reiðin ofur fljót,
Andlitið með sorta klíndi.

36. Samt þá brjefið búið er,
Og buðlung grundað málin hefir,
Honum sefast heiptin fer,
Hlýrri lundin, næði gefur.

37. Þankar blíðir hrekja heipt,
Hjartað dáða vinar rjeði,
Hún um síðir hreld og sneipt,
Hundast þá úr kongsins geði.

38. Brjóstið linast, harmur hnjeg.
Hjalaði glœtu týrinn unnar:
Æ þú vinur ert sem jeg,
Adams barn og náttúrunnar!

39. þú hefir varist vel sem ber,
Vafinn galla hugar súta,
Valves þar þú veiklast fer,
Veit jeg allir hinir lúta.

40. þú ert runninn burt úr byggð,
Brúði frá er augun metti;
þín hefir unnið eðla dyggð,
Ágirnd, þráa, svik og pretti.

41. Við skulum gleyma glœddum harm,
Gleði inn í staðinn ríma,
Vitja heim í vinar arm,
Valves minn í annan tíma.

42. Dyggðir háar drýgjum bezt,
Deyði yndið storma hina,
Eg vil sjá hver orkar mest,
Í eðallyndi og brögðum vina.

43. Fyrst að vegna vinar þú,
Vænu sprundi hyggst að týna,
Jeg vil gegna aptur nú,
Eðallund svo reynir mína.

44. Þannig einn við sjálfan sig,
Sjóli tíðum mæla rjeði,
Eðlis hreinn því innilig
Ástin bíður þá í geði.
45. Valves fund] svo víkjum á,
Vígalundur tryggða sterki,
Áfram skundar nú að ná,
Noregs undir landamerki.
46. Þessum vegi þungum á,
Þar hann ræður ferðir nœra,
Skíða sveigir skjótur á
Skólabrœður tvo sjer kæra.
47. Þessum hann við háskólan
Hafði að sinna fyrr á árum,
Dyplis annan kalla kann.
Kristján hinn, þeir menntir báru.
48. Valves þá hinn væni nam,
Vingan háa kongsins fanga,
Beiddi sá hinn blíði gram
Bót að ljá þeim týrum spanga.
49. Af því þengill œðstur bauð,
Sem elskar drenginn hugarsvinna,
Að þeir fengju beztu brauð
Báðir engja týrar linna.

50. Gæfu vegur þeirra þá,
þeim að dregur rósemd hlýja,
Brauðum þegar nýtum ná,
Norðarliga á fróni Svía.

51. Saman báðir aka auð,
Eignast láð og garða hreina,
Valves hrjáði vill í nauð,
Vina dáðir þeirra reyna.

52. þakka máttu hyggnum hal,
Höppin nett á láði og unni,
Lífið dátt og valdaval,
Valves þetta skynja kunni.

53. Dagur flýr á fögrum mar
Framm óhýr vann nóttin skríða,
Að garði dýrum Dyplesar,
Djásna týr þá náði ríða.

54. Eins og hæfir, seggur sá,
Sinnar gæfu smiði tekur,
Veizla æfist honum hjá,
Harmur svæfast mátti frekur.

55. Mest af blíðu var þar veitt,
Valves fríðum kærleik meður,
En þó stríðið innra heitt,
Ekki gríðar fælir veður

56. Máltíð góð og mjöðinn klár,
Mundi bjóðast hlini klæða,
En ekki blóðug andarsár,
Ölfa flóðin mega græða.
57. Sæng til reidd í salnum há,
Segginn beiddi þreytu týna,
Gríma breiddi blæur á
Baldur neyddan mána rína.
58. Valves blundar værț og rótt,
Vina lundin nærist ríka.
Gæfustund og náðug nótt,
Nista grundum færist líka.

---

## Fimmta ríma.

Skothenda.

---

1. Skemta reyni jeg skrúðasól,
En skipti smátt um bragi,
því jeg meina að hrjáðri hól
Hinir fæstir dragi.
2. Grana byrða blindviðar,
Bezt þó hátta leiti,
þessar virði vísurnar,
Valla rímna heiti.

3. Þykja gœði lítil líð,
Að lesa svoddan kvæði,
Vantar bæði blóð og stríð,
Býsn og trölla œði.
4. Kvæðum una ekki par
Ormatýrar haga,
Nema að buni blóðstraumar
Bæði nótt og daga.
5. En þeir skyldu koma á kreik,
Sem kliðinn elska fleina,
Sjálfir hildar hroða leik,
Horfa á og reyna.
6. Þar sem eina ógnin sjezt.
Og æða rennur láin,
Særðir veina, fólkið flest
Fellur eins og stráin.
7. Trúðu maður hygginn hjer,
Helzt jeg satt um rœði,
Gleðistaður enginn er,
Á eggja hlýða kvæði.
8. Þeir sem kæti þvílíkt ljer.
Þar sem skjómar hrína,
Veit jeg gætu gamnað sjer,
Gorgs við rímur mínar.
9. Þeir sem blíða þanka fá,
Og þar af nœra yndi,
Vilja hlýða heldur á,
Hóf og eðallyndi.
10. Þetta stillir þanka manns,
Er þegi unna morðum,

Skapið tryllir heimsku hans
Hljómar á vígastorðum.
11. Tröllalygi og töfra býsn,
Trylla siði spaka,
En við því með eyrna fýsn,
Allir vilja taka.
12. Þeim er spúa lands um leir
lyga fádœmunum,
Enn þá trúa margir meir,
En messu guðspjöllunum.
13. Skáldin bœti bragarmál,
Bresti leggi niður,
Hjörtun kæti og hressi sál,
Hentug efni viður.
14. Huga ljóðin vekji vorn,
Vaki þankinn mjúki,
Siðist þjóðin, fíflska forn,
Í fjöll og hóla strjúki.

---

15. Nætur linna ríkið rjeð,
Við ráðum dagur tekur,
Valves minn á mjúkum beð,
Morgun sólin vekur.
16. Dyplis þar sem hvílir hinn,
Hœgðum svo ei brjáli,
Gekk með vara vitur inn,
Víkur svo að máli.

17. Fyrirgef þú vinur vor
Að vek jeg manninn lúna,
Slíks til krefur þó mitt þor,
Þörfin beggja núna.

18. Hjerna var um miðdags mund,
Maður í bœnum fríða,
Skrá hann bar á skatna fund,
Skyldum allir hlýða.

19. Konungs sakir þeigi þær,
Þó jeg nú um tali,
Hver þig taka af Tiggja fœr
Tuttugu hundruð dali.

20. Þig skal deyða að dómi grams,
Drottins vegna svika,
Því mun hreiður hlyni gamms,
Hjeðan ráð að strika.

21. Um það frjetta ei jeg vil,
Angur nóg er fengið,
Hvernig þetta hefir til
Hörmuliga gengið.

22. Höfðingjanna hylli er
Hús á lausum sandi,
Viður þann er valdi sjer,
Og verður brátt að grandi.

23. Það í leyni lyndir mjer,
Svo ljetti meini beggja,
Þig jeg einan þekki hjer,
En þeygi neinir seggja
24. Samt er vandi að vera hjer,
Ef vitja hingað fleiri,
Því nú handar grjóta grjer,
Gjör mín ráðu heyri.
25. Munum snœða morgun verð,
Mestum þó með hraða,
Þjer svo ræð jeg fá í ferð
Fáka þrjá óstaða.
26. Trygga þjóna mína með
Mun jeg kveðja ferða,
Framm um ljóna fríðan beð,
Fylgispakir verða.
27. Þótt að hestar herði skeið,
Hvergi munu bila,
Ykkur bezt um bjarga leið
Bráðum áframm skila.
28. Um hádegi hjeðan frá,
Hvata munuð fremur,
Veit jeg megið Noreg ná,
Nóttin áður kemur.

29. þjer minn kæri, eg sem ann,
Auðnu að fáir dýra,
Valla í gær eg voða þann,
Vildi að fullu skýra.

30. Mín þó lundin hryggist hljótt,
Hjelt jeg runni sverða,
Hjer af mundi miður rótt,
Í mínum húsum verða.

31. Í fæstum orðum saga sú,
Sálar kvöl ei ýfi,
þörf að forða þykir nú,
þínu dýra lífi,

32. Faðmar væra vininn þá,
Valves þannig ræðir:
þína æru jeg elska má,
Ást og tryggð sem glæðir.

33. Lítils mín þó meti kjör,
Sem mæðan veitir stirða,
Elsku þína og ástarsvör,
Er mjer skilt að virða.

34. Samt það læt jeg sannprófað,
Seggur vafinn snilldum,
Lítið gæta atlar að
Embætti og skyldum.

35. Þína skyldu jeg kalla kann
Kvala til og dauða,
Að fœra milding fjötraðan,
Flóttamanninn snauða.

36. Framm þjer sel jeg sjálfan mig
Svo þú skyldu rœkir,
Þó fái jeg hel það huggar mig,
Heillin til þín sœkir.

37. Dyplis brúnum þrikkti þá,
Þrútnaði skapið blíða,
Geðs í túnum þykkja og þrá,
Þegni mundi svíða.

38. Þú minn kæri, er flytja fer
Fremur ráðið slæma,
Dyggð og æru ei frá mjer,
Alla máttu dœma.

39. Nauðsyn eigin ansar hinn:
Eptir þjer má reka,
Í staðinn deyja máttu minn,
Ef manninn frýjar seka.

40. Drottinn gæfi Dyplis kvað:
Að deyja mætti þanninn,
Betra en æfin öll er það,
Ef œðri frelsar manninn.

41. Fyrir deyja dyggðir há,
Dýrstur þykir sómi;
Jeg vil feginn fylgja þá,
Forlaganna dómi.

42. Valves spynnur svör um sinn,
Sorga þjáður pínum:
Þú skalt vinna, vinur minn,
Að vilja sný jeg þínum.

43. Dýrust vari dyggðin þín,
Dæmin kenni hinum,
Einatt hvar sem ástin brín,
Opnar hjörtu vinum.

44. Skeinkja vildi Valves þá,
Vefu af eðalsteinum,
Sem af milding sjálfur þ á,
Svona kom að greinum.

45. Þyggðu svinni þegn af mjer,
Þennan sjóðinn fríða,
Svo að mynnumst heldur hjer
Happasælli tíða.

46. Þín er minning mælti hinn,
Mjög á nótt sem degi:
Hjá mjer innra helzt það finn,
Hnossið þigg jeg eigi.

47. Hjá þjer búi blessan hver,
Bœnin styðji og trúin,
Flýttu nú að forða þjer,
Fákurinn stendur búinn.

48. Viljinn fylgði vina sið,
Vefjast báðir örmum.
Dyplis skildi Valves við,
Vöknaði brún af hörmum.

49. Jórinn strýkur jarðar búk,
Jötna stofur braka,
Eins og fýkur fönnin mjúk,
Í feikna vindi um klaka.

50. Fylgðu sveinar fríðum tveir,
Fýstu lítið bíða,
Hesta einatt hýða þeir
Hóla og mela ríða.

51. Stormar grílu hvata hag,
Hauður bulldi sviðið,
Tuttugu mílur miðjan dag
Mætir hafa riðið.

52. Hætta gleymist þanka þar,
Þykir ferðum nœgja.
Flótta beim og fylgjarar,
Fákum sínum æja.

53. Þá á brautu þjenarinn,
Þungum bilti sjóði
Í Valves skaut, og viðfeldinn,
Víkur svo að hljóði.

54. Hjer um bauð minn herra trúr,
Að hrúguna til þín dragir,
Hættu og nauð þá allri úr
Ykkur komna segir.

55. Hann þig nota biður bezt,
Báru ljós er sendir,
Nú mun slota neyðin flest,
Í Noreg þegar lendir.

56. Valves stynur vænn og kvað;
Við vanda á jeg að stríða,
Kvöddu hinir, hjeldu á stað,
Hann fór líka að ríða.

57. Fullvel getað hefði hann
Hrundið öllum skaða,
Og látið setja ljettfetan,
Úr landi Svía þaðan.

58. En af því honum Kristján kær,
Í kvæði nefndur áður,
Hjer að vonum harla nær,
Húss og fólks var ráður.

59. Ferða móðan fýsti hal,
Fornan vin að líta,
Kænn um slóð að Kristjáns sal,
Klárnum rjeði flýta.
60. Opt er vandi að velja sjer
Vin, og binda tryggðum,
Mest er grand ef miður fer,
Að meiðast hans af styggðum.

---

## Sjötta ríma.

Stuðlafall.

---

1. Kvæði tíðum klaka-líðum jarðar,
Helir tvinnað muni minn,
Má hjer finna reikninginn.
2. Á tólfta ári tók jeg pára kvæði,
Af Ölvers bragða þætti það
Þar með laggði fyrst af stað.
3. Þorsteins rímu þessum tíma nærri,
Eg með kappi orkti þá,
Eins af Hrappi flutti skrá.
4. Af Persa sjóla Sýró ól jeg kvæði,
Af Kambisi orkti óð,
Ei þótt sjeu kvæðin góð.
5. Af Hemingi Ásláks slyngum niðja

Hóf jeg brag og hjer næst þá
Hálfdáns laga mundi skrá.
6. Öll jeg þessi ungur vessin þuldi,
Heimsku blandinn halda má,
Hjeðan af landi fór jeg þá.
7. Hingaðinn, þá annað sinn nam venda,
Högna bæði og Hjeðni frá,
Hóf jeg kvæði að nýju þá.
8. Af Hans og Pjetri hef jeg letrað kvæði,
því næst Hræðu þórði af
þrúði klæða flutti skraf.
9. Af Fertrams þætti fór jeg hætti laga,
Lítið bættu ljóð mín smá,
Lygaþvættings sögu skrá.
10. Jeg af slyngum Jómsvíkingum síðan
Fjórtán bragi flytja rjeð,
Fögru lagi ekki með.
11. þessar tvennar þrikktar kennast víða,
þó mun engan þokka fá,
þrikking röng á stirðri skrá.
12. Tistrans víða vessum hlýða bragnar,
þótt að prýði skert sje skrá,
Sákrra smíði þeim er á.
13. Svoldar við þó söng jeg iðinn reyndi,
Tóna liðugt temja svar,
Tókst þó miður en ætlað var.

14. Eg nam vanda út á landi Græna,
Eptir beztu efnum þá,
Óðarlestur Núma frá.
15. Vini góðum Gorgs jeg ljóðin færði,
Ötuð blóði allstaðar;
Eptir hljóðun sögunnar.
16. Gunnar fríða frá, á Hlíðar-
enda,
Elda víðis vitrum staf,
Vísna smíði mitt jeg gaf.
17. Eins að nýju Emilíu raunir,
Eg nam kveða að annars bón,
Sem ýta ljeðar verða sjón.
18. Nú í vetur vann jeg letur smíða,
Fyrir varar vita gná,
Valdimar og Sveini frá.
19. Þjer nú færi jeg fremda og æru ríka,
Týru rasta tróðan svinn,
Tuttugasta flokkinn minn.
20. Hálft hið þriðja hundrað lið-
ugt rímur,
Í þessum finna flokkum má,
Þó fánýt vinna þyki á.
21. Opt og tíðum til þess líðir vita,
Eptir hinna eyddur snilld,
En ekki minni kveð jeg vild.
22, Hjá mjer þjóðin heimtar ljóð af
sögum,
Unz jeg flæmist út um höf,
Eða dæmist nár í gröf.

23. Kveðju góða Kristján bjóða náði,
Vika snar og vænn að sjá,
Velgjörara sínum þá.

24. Leiðir inn og lotning vinnur mesta,
Ástvin kærum örlyndur,
Eins og væri hann konungur.

25. Heimamaður mikið slaður hefur,
Líkast það svo þótti hjer,
Því er smjaður köllum vjer.

26. Valves á hans ofurdáu bragði,
Þóttist sjá hann vinur var,
Vænsti sá til huggunar.

27. Það af rjeði, þegni tjeði í leyni,
Hilmirs reiði og hótun frá,
Og hverri leið hann væri á.

28. Einnig frá þeim fjölda láar stjörnum,
Er lofðung vann að lofa þeim,
Lífs er manninn fæðu heim.

29. Kristján þá í kinnum brá að litum,
Numinn frá sjer nú stendur,
Nær að sjá sem truflaður.

30. Hans viðmót tók harla fljót umskipti,
Síst þó gruna Valves vann,
Að vonzkan muni trubla hann.

31. Inn þar blundar, baugalundur fríði,
Sextíu vaða vopnaðir
Virðar skaða til búnir.

32. Þeir á fætur þegnin mæta hrekja,
Fylltir bræði og fúlyrðum,
Með fleinum hræða sárbeittum.

33. Í fjötur járna frekt þó sárna megi,
Valves reyra þrælar þá,
Þröngan keyra vagn svo á.

34. Kristján meður kauðum rjeðist
fara,
Að stillirs keyra staðnum vann,
Stokkhólm heyrum nefndan þann.

35. Um það skeiði Aðalheiður fríða,
Gremja sveið í geði þrá,
Götur breiðar laggði á.

36. Boðorð sjóla, beðjan stóla orma
Hafði frjett með hrærða lund,
Hilmirs setti því á fund.

37. Konginn fann og fyrir hann sjer
niður
Kastar þá, en inni er,
Einn hinn hái skjómaver.

38. Hissa bæði og hrærður klæðaviður

Fas og æði svanna sá,
Sútin klæðir hennar brá.
39. Kongur vildi vekja mildur ræðu,
Grátin fjarðar freyja báls
Fyrri varð þó nú til máls,
40. Hún svo greinir: Herrann eini valda,
Hverju gegna hvöt að pín,
Heiptar megnu boðin þín?
41. Fyrst ei hlífið, honum er lífið vildi,
Yðar vegna voga sjer,
Vænnstur þegna konungs er.
42. Kongur þylur: þig jeg skil min kæra,
Dyggð frá vikin voða með,
Valves svik oss búa rjeð.
43. Hver mig rænir hjarta vænu þinu,
Svikari drottins illur er,
Ekkert gott sá fær af mjer.
44. Sig hefir játað sjálfur plátuviður,
Hjá þjer ástar unnustan
Í örmum sást að liggja vann.
45. Svo má vera, vífið fer að tala:
En hinu frá jeg fræði þig
Faðma sá hann enginn mig.
46. Eg tilbað hann, en hann það ei vildi,

Yðar bœnum einatt með
Orðum kænum flytja rjeð.
47. Veit jeg ann því yður hann hið mesta,
Sleit sig mínum faðmi frá,
Fullur pínu og reisti þá,
48. Hans ei dyggðir hjer um byggðir
víða,
Munum finna mönnum hjá,
Milding svinnur gegndi þá.
49. Dyggð hans þekkir þú samt ekki
að hálfu,
Mjer er kunnast hjarta hans,
Hef því unnað týri brands.
50. Saklaus er hann sem þú gerir mæla,
Verðugan því veit jeg þjer
Vænnstan mann í ríkjum hjer.
51. Sálar yndi og eðallyndi kappa,
Aðalheiður hæfir þjer,
Hvaða leið sem um jeg fer,
52. Meðan þannig mælir hann við brúði;
Kemur glanninn Kistján þar,
Á kinnum manninn innra bar.
53. Hlikkast niður hilmirs viður fœtur,

Sem eitur slangan illa þar,
Eins og langur til hann var.

54. Upp svo rjetti ærnum fettum meður,
Skrokkinn langa skömmin ill,
Sem skaða slanga er býta vill.

55. Orð svo vandar: allsráðandi herra!
Heim um land nú aka eg,
Yðar fjanda langann veg.

56. Tryggð mun engin yðar drengja geyma,
Allt eins ríka og eg um láð,
Ef að slíku rjett er gáð.

57. Vinur minn var Valves slinni svika,
Saman aldir ungir við
Ástar halda náðum sið

58. Vina tryggðir, við og dyggðir sórum
Hver við annan halda þá,
Hjer jeg sannast greini frá.

59. En nær frjetti, að yður pretta náði,
Allt eg þettað einkis mat,
En æfa rjettar skyldur gat.

60. Tók jeg höndum hann og böndum vafði,

Æru launa yður hjá,
Ei mun raunin verða smá.
61. Öðling starir, allur var hann hissa,
Viðbjóðslegum augum á,
Ærutrega þra-linn brá.
62. Þá um síðir, sjóli smíðar ræðu:
Æru mest þú eykur bann,
Allra vesta mannfýlann.
63. Hver þig fræddi, háðung klæddi dári,
Að þvílík mundi þóknast mjer
Þrælalund, og athafnir?
64. Vondur glanni guðs og manna laga,
Slítur beztu böndin hvar
Brúkar vestu skammirnar.
65. Tryggðir festar traust, og Gestafriðinn
Vina skyldu, vit og trú,
Vonzku trylldur myrðir þú.
66. Skrímslið þetta, þó með rjettu kalli,
Gikkinn svarinn glœpa kyns,
Guðs svikara og konungsins.
67. Takið fœrið fantinn æru vana,
Allt svo hjúpi illan fár,
Ofan í djúpar fjallagjár.
68. Þar sem enginn orkar dreng að bjarga,

Og hvar sólu sjer alldrei
Saurugt fól og lasta grey.
69. Hjeðan úr ríki hyskið víki kauða,
Svo þær illu óvættir,
Ekki fylli landið hjer.
70. Húðar fölur hyssa kvölum seldur,
Afskúm manna argur stóð,
Í því glanna höndlar þjóð.
71. Fögnuð meður fólk hann hjeðan
dregur,
Svo að endi æfin þar,
Ofan í henda gryfjurnar.
72. Enginn maður aumkvar skaðan kauða,
Útsmánaður angur bar,
Alhataður sökk hann þar.

---

## Sjöunda ríma.

Frumhenda.

---

1. Rímu kyrjum eina enn,
Ef að mærin hlýðir.
Allt hvað byrja og æfa menn,
Enda nær um síðir.

2. það eru æfi okkar kjör.
Allt burt sleppt má fara,
Dauðinn svæfir dáð og fjör,
En dæmin eptir vara.
3. Hjer að þjóðin hyggja má,
Happa ráða iðin,
Sá sem góðan orðstýr á,
Æfir dáðir liðinn.
4. Lífs þó morðið líði nár,
Ljettir mengi skaðan,
Verkin, orð og vitrar skrár,
Vara lengi þaðan.
5. því er vandi um tæpa tíð,
Að tempra veginn þanninn,
Að dugi landi dæmin fríð,
þó dauðinn beygi manninn.
6. Jeg hef dæmi leitt í ljóð,
Liðna tíma hinna,
Góð og slæm sem grundar fróð,
Gerður víðis linna.
7. Heiðri vafin veiga stjett,
Vísdóm á sjer mikinn,
Gáfum kafin, nákvæm nett,
Notar smá atvikin.
8. Brúður dá, mjer benti á,
Bragar vess að glæða,
Og mikið smáa mærðarskrá
Mína þessa að fæða.
9. Vísna gaman virði skrá,
Viti hreinar dróttir,

Góð maddami gáfna há,
Guðrún Einarsdóttir.
10. Dyggðum veldur sjerhvert sinn,
Svofnirs reyta hlýðin,
Á Sandi heldur Halls bœinn,
Húss- og sveitarprýðin.
11. Virð til góða mærin mjer,
Meðan þekk til hlýðir,
þetta ljóða lítið kver,
Sem lagið ekki prýðir.
12. Vilja bögur brjóstið hjá,
Bilað hikar geðið,
Mínum dögum eg hef á,
Allt ofmikið kveðið.
13. þann jeg betri þekkti sið,
þá við greina vímur,
Hefði jeg setið sífellt við,
Svo sem einar rímur.
14. því var miður, það var ljótt,
þó svo skráð má standa,
Jeg hefi iðað ofur fljótt,
En ekki gáð að vanda.
15. Hyggnir lagi ljóðin mín,
Lærdóm trúa sínum,
þeirra vægi vingan fín,
Vísna grúa mínum.

---

16. Eptir níðing andaðan,
Á sem vinnur skaðinn,
Kongur býður, bandingjan,
Að bera inn í staðinn.

17. Inn í sveimar salinn þar,
Sunnu bendir rýnar,
Var ófeiminn, bundnar bar
Á baki hendur sínar.

18. Kongur greinir, kemur þú
Kviðu glanna raptur:
Ferða seinan sje jeg nú
Sendimanninn aptur.

19. Að þjer leita hjörtu hjer,
Hætt er engum voða,
Brígzli veita máttu mjer,
Minna ströngu boða.

20. Svarar hinn, mín unun er
Œðst sem má jeg nýta:
Einusinni aptur hjer
Yður fá að líta.

21. Hvarma steinum víkur við
Valves, heiður kenndur,
Engil hrein við öðlingshlið,
Aðalheiður stendur.

22. Við það litum Valves brá,
Vekja fer svo kviður:
Fjarðar vita brundin há,
Hjerna sje jeg yður.

23. Lengi gæfan lofist hrein,
Lukku byrinn sendi,
Nú sem kæfir meyjar mein
Mildings fyrir hendi.

24. Hryndið ama fornum frá,
Fetið nýta vega,
Bindið saman hjörtun há
Heitt og ítarlega.

25. Hvaða bœnir þylur þú
þengill hnegir kviður:
Ef jeg ræni frá þjer frú
Fer þá eigi miður?

26. Flóa mána grímur, grein
Gefur þar án trega:
þetta rán er ósk mín ein
Innra varanlega.

27. Aðalheiðar tali til
Tiggi vann að flýta:
þig jeg beiði bezt í vil,
Bönd af manni slíta.

28. Að oss ljáir þjónkan þá
Í þessu skini segi,
Svo jeg dáast faðma fá
Forna vininn megi.
29. Hjartað slœr en höndin skalf,
Hita stráði um vanga,
Ágæt mær að ungum Valv-
es þá náði ganga.
30. Sjer vill flýta frúin mjó,
Að frýja sverðaþundinn.
Fjötur slíta, fljóði þó
Í fámi verða mundi.
31. Sínum stóli sjóli frá,
Sig nam reisa þanninn,
Hringasólu hjálpa má
Hann að leysa manninn.
32. Faðmar síðan sjóli hal,
Sá til blíða þjóðin.
Þengill smíðar þannig tal:
Þá við skíða rjóðinn.
33. Vertu aptur velkominn,
Vist skal trúum búa,
Ástar kraptur allur minn,
Að þjer nú skal snúa.

34. Þitt sakleysi, þína trú,
Þar af haginn dragið.
Hefir eisu brunna brú,
Bezt fyrir daginn lagið.
35. Meðal bresta mig að sjá,
Mest þó kynni sinna,
Hvað þjer bezti bróðir má
Til bóta finna og vinna.
36. Trúr þú einatt unntir mjer,
Að þá dundi pína,
Jeg vil reyna aptur þjer
Eðallund að sýna.
37. Þigg nú greiða þann um stund,
Þess jeg beiða vildi,
Aðalheiður ást og mund
Að þjer breiða skyldi.
38. Veit jeg píkan þiggur það
Þels í rótum sínum.
Valves líkjast vil jeg að,
Vinahótum mínum.
39. Þótt jeg innan þoli stríð
Þörfum sinni vina
Sigri og vinni vingan blíð,
Vellist minni hina.

40. Þar við sló í þögn um hríð
Þelið varma hjarir,
Vita flóa vörin blíð
Í Valves hvarma starir.

41. Hugar stillt þar huggði að
Hringa vör í ranni,
Hvaða bilting boði það
Í brjósti gjöri manni.

42. Því næst rjóð með rósabrár
Ræðu hnegir svanninn:
Nei, óþjóða hari hár,
Hjer skal eigi þanninn!

43. Valves lyndi veit jeg er
Vífi smátt að unna,
Þar til yndi öðlist þjer,
Œðsta náttúrunnar,

44. Veit jeg þaðra þorna ver
Þeim ei greiða sinnir,
Nema aðra öðling þjer
Aðalheiði finnir.

45. Innra leynist ástin hlý
Eisu brunna ströndu,
Við skulum einum vefjast í
Vináttunnar böndum.

46. Öli samhuga um það mál
Eitt það bindum tryggðum
Oss skal duga að efla sál,
Eðallyndi og dyggðum.
47. Báðir kenndu í brjósti móð
Bráins dala hlinir,
þar við lendir, þannig stóð
það handsala vinir.
48. Lengi varir þannig þá
því ei mátti lina.
Hissa starir heimur á
Hjarta sláttinn vina.
49. Öll þau tíðin áfram bar,
Eflist prýðin rara,
Unz um síðir öðling snar
Út í stríð má fara.
50. Trúarbragða breitingar
Brýndu hugi sára,
Orustu lagði þjóðin þar
þrenna tugi ára,
51. Bjó í voða vænni ber,
Vals þar dý um flóði,
þennan stoða flokkinn fer
Fylkir Svía góði.

52. Stýrði liði lengi hann,
Í lensu niða hrinum
Sjálfur iðugt sigra vann,
Sóttist miður hinum.
53. Í manndrápsstríði þungu þó,
Á þýzkum grundar jöðrum,
þar um síðir sjóli dó,
Særður undra nöðrum.
54. Hafði sigrað hina rak,
Her á flótta keppti,
þars af vigri banablak
Buðli drótta hreppti.
55. Um það sjeð er saga tvenn,
Sóknar hvert á veldi,
Fjendur eða eiginn menn
Öðling virta felldi.
56. þegar að láði lagðist nár,
Við laufa gnýinn sára,
þá var ráður þjóða hár,
þrjátigi og níu ára,
57. Tuttugu ár og eitt hann var
Einvaldsstjóri Svía,
Heiðurs klára hrósið bar,
Heillir rór að drýgja.

58. Valves grætur vininn mest,
Var þó eitt til bóta,
Gat nú mæta fljóðið fest
Fleigir beittu spjóta.

59. saman vígjast sálarhá,
Svæfa máttu kvíða,
Ástir drýgjast þeirra þá,
þessa áttu að bíða.

60. Dyggðin vær og varanleg,
Sem vina æran leiðir,
Ætíð fœrir á þann veg,
Sem yndið kærast beiðir.

---

# EPTIRMÆLI.

eptir

## Sigurð sáluga Breiðfjörð.

---

1.

Margur ami mæðu kemur
Mönnum að sem gjörir skaða;
Hekla gaus um hauðrið Ísa
Hátt í lopt úr sínum hvopti,
Gnýr og eldur fólkið fældi,
Feikna stóru björgin vóru
Henni af um hauðrið drifin
Hræsvelgs andinn flutti sandinn.

2.

Sá nær skaði sjatna rjeði
Sótt misslinga fluttist hingað,
Furðu skæð sú flesta þjáði,
Fór um landið óstillandi,

Míkinn fjölda manna felldi,
Mögnuð sýki fæstra líki,
Margir ljetust menn ágœtir
Meiga hinir syrgja vini.

3.

**Sigurð Breiðfjörð** sóttin skæða
Svipti lífi heims frá kífi,
Burt er hafinn lengi lifir
Lofstýr hans í fyrða kransi,
Mitt við aldurs árið sjötta
Yfir hniginn fjörutíu,
Hann ei lengur lýða mengi
Ljóðum gleður sínum meður.

4.

Ljóðin hans um landið víða
Lýðum skemtun færa tíðum;
Góðu viti gœddur maður
Gœða skáld á dönsku kvæðin;
Maður tungu mála fróður
Með jafnlindu spektar geði;
Kvað aldreigi neitt af níði.
Niður lagðist svo í friði.

5.

Rímna liðugt flokka fríða
Flytja náði geymir dáða,
Mönnum fimm og tíu tvenna
Tals af ljóða safni fróðu.
Margt er prentað, mörg þó vanta
Mærðarstef, sem kveðið hefur;
Engin fyrr á Ísavangi
Yrki fleiri ljet oss heyra.

6.

Heimsins auð í höndum báðum
Hafði sjaldan lífs um aldur,
Yfir skorti ei rjeð kvarta
Ýms þó gœði vanta næði;
Arfi hæða eptir þreiði
Andinn hans með sigurkransi,
Engla syngur œðstum kongi,
Eilíft hrós, í dýrðarljósi.

S. Þorleifsson.

## Leiðrjettingar.

---

4. bls. 13. vísu 2. l. a. n. talið, eptir orðinu „við“, vantar orðið um. 7 bls. 27 v. 7 l. a. o. t. „þorna“ f. þarna. 17. bls. 24. v. 7. l. a. n. t. „Fjótast“ fyrir Fljótast. 30. bls 46. v. 7. l. a. n. t. á að vera úrskurð.

---

